Gísli Egilson

# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

7. ár. WINNIPEG, JANÚAR 1893. Nr. 11.

## *LOFSÖNGR*

út af 150. Davíðs sálmi.

Eftir séra Valdemar Briem.

---

Lofa guð þinna; hvar?
hvar skal lofa drottin?
Uppi, niðri, alstaðar
á að lofa drottin.
Lofa guð í húsi hans,
helgidómi skaparans;
lofa, lofa drottin!

Lofa herrann; hve nær þá?
hve nær lofa drottin?
Hverjum tíma ársins á
æ skal lofa drottin.
Allar stundir, ár og síð,
alla þína lífsins tíð
lofa, lofa drottin!

Lofa guð þinn herra; hví?
hví skal lofa drottin?

Fyrir verk hans forn og ný
fólkið lofi drottin.
Fyrir dýrð og dásemd hans,
dýrðar-undrin skaparans,
lofa, lofa drottin!

Lofa herrann; hvernig þá?
hvernig lofa drottin?
Leik þú strengi lífsins á,
lofa þannig drottin.
Lofa guð með hörpuhljóm,
hjartans raust og munnsins róm;
lofa, lofa drottin!

Lofa guð þinn herra; hvað?
hvað skal lofa drottin?
hver ein sál í hverjum stað
heiðri' og prísi drottin.
Allt, sem hefir andardrátt,
allt, sem hefir líf og mátt,
lofi, lofi drottin.

## ÞRJÚ KIRKJULEG FRAMFARAMÁL.

Eptir sjera *Hjörleif* prófast *Einarsson*.

Sökum þess að „Kirkjubl." tók ekki nema inngangsorð af fyrirlestri mínum, sem jeg hjelt á hjeraðsfundi að Undirfelli 19. júní þ. á. og birt er í ágústblaðinu þ. á., þá vil jeg mælast til þess, að ritstjórn „Sameiningarinnar" ljái mjer rúm í blaði sínu fyrir þau 3 aðalmálefni, sem þar eru gjörð að umtalsefni.

* * *

Hið fyrsta þessara mála er *unglingafjelögin*. — Ástand kirkju vorrar nú á tímum sannar það fullkomlega, að þeirra er þörf. Það þarf ekki lengra að fara en að vita það, hve fágætt það er meðal unglinga, að þeir *eptir ferminguna* haldi áfram að fullkomnast að kunnáttu í guðs-orði og hve vankunnandi allur þorri alþýðu er í heilagri ritningu. Þó engu barni á Íslandi komi til hugar að segja önnur eins ósköp eins og það, að Absalon

hafi verið sonur Mósesar, og að þessi góði sonur hafi ráðið honum bana, þar sem hann af tilviljun varð fastur í eik nokkurri, eða að Lot hafi verið sonur Abrahams og Ismael kona hans, eins og dæmi eru til í skólum hennar hátignar Victoríu drottningar, þá er þó fáfræðin í heilagri ritningu eflaust æði mikil. Heimilin og söfnuðirnir hafa beðið óumræðilcgt andlegt tjón af því, að hafa lagt upp á hyllu heilaga ritning, orðið, sem geymir sannleikann, ljósið og lífið. Það er svo hörmulega vanrækt að láta guðsorð búa *ríkulega* meðal vor. Börnin vita þetta eins og aðrir og sjá það fyrir sjer, og það er ekki að búast við, að þau taki sjer fram um það, eða taki því ástfóstri, sem aðrir hafna, og það er því miður gjört meira úr því að komast í kristinna manna tölu en að vera kristinn með sál og lífi. Hversu affarasælt, æskilegt og blessað hlýtur það því að vera fyrir hina komandi kynslóð að hefja göngu sína í erindum guðs-ríkis með þeim alvarlega og einlæga ásetningi að láta guðs-orð vera sitt ljós á veginum og fullkomnast meir og meir í skilningi og anda þess? Þess vegna er það *skylda vor*, að gjöra allt, sem oss getur hugsazt áhrifamikið og gagnlegt, til að vekja og viðhalda kristilegum áhuga meðal hinnar yngri kynslóðar. Og má jeg spyrja: Hvað getur haft meiri árangur en að draga hina ungu saman í kristilegan fjelagsskap, með því augnamiði, að auðga anda þeirra í rjettum skilningi á guðs-orði, auðga hann að kristilegum dyggðum, kenna þeim að hugsa og vinna í sameining að þeirra andlegu velferð, styrkja þá ár eptir ár í elskunni til frelsarans og æfa þá í að verða sjálfstæðir og fullorðnir í trúnni? Ef nú presturinn, forstöðumaður safnaðarins, og fræðari hinna ungu, óskar eptir að stofna slíkan fjelagsskap í söfnuðum sínum, til þess að geta haft sem bezt áhrif á börnin eptir ferminguna, sem hann annars ekki treysti sjer til að hafa, hvað ætti maður þá að hugsa um þann söfnuð, sem eigi vildi sinna því máli? Jeg get ekki ímyndað mjer, að nokkrum kristnum söfnuði geti blandazt hugur um það, að þessi fjelagsskapur væri í alla staði hinn ákjósanlegasti, ekki einungis fyrir unglingana, heldur einnig fyrir allt safnaðarlífið yfir höfuð. Jeg get ekki ímyndað mjer nokkurt kristið foreldri, sem ekki fyndi sig kallað til að hvetja barn sitt til að vera með í þessum fjelagsskap og ekki vildi sjálft fylgja þessu málefni með lífi og sál. — Auðvitað kostar þetta prestinn

talsverða fyrirhöfn, sem jeg get þó ekki ætlað að stæði í vegi fyrir þessu fyrirtæki, en bráðum mundi hver söfnuður kappkosta að útvega sjer og presti sínum aðstoðarmenn, færa til að kenna og leiðbeina og fúsa til að gefa í sölurnar til þess einn eða tvo klukkutíma á helgum dögum, og ætti það að vera því hægra, sem kristindóm á nú að kenna í kennaraskólum. Þó nú presturinn sje eindreginn talsmaður þessa fjelagsskapar, getur hann þó ekkert gjört, sem að gagni sje, nema með hjálp ötulla stuðningsmanna. Telji söfnuðurinn það úr, eða sinni því að eins með hangandi hendi, getur presturinn litlu áorkað. Hjeraðsfundir vorir, sem hver eptir öðrum hafa tekið barnafræðslumálið á dagskrá sína, geta, að minni meiningu, ekki látið staðar nema við það, sem komið er. Aðalatriðið er því það, að hin kristilega fræðsla og kunnátta verði að kristilegum nótum þegar í lífi barnanna og blessun og ljósi á komandi lífsleið þeirra. Próf í biflíusögum og barnalærdómi sýnir að eins kunnáttu eða vankunnáttu barnanna, en það á að festast, styrkjast og prófast á ókominni æfi þeirra, hvern andlegan fjársjóð þau hafi hlotið og að hverju andlegu liði hann verður. Hjeraðsfundirnir hafa að eins byrjað það mál, sem þeir þurfa að framhalda lengra og hafa ár eptir ár á dagskrá sinni.

Annað er „*College*“-málið svo kallaða, það mál, að styrkja bræður vora í Vesturheimi til að koma upp æðri skóla eða menntastofnun fyrir kirkjufjelagið.

Það hefur glögglega verið tekið fram af hinum ágætustu mönnum vorum, bæði hver þörf sje á þessu, og að það sje brýn og bein skylda þjóðkirkju vorrar að láta þetta mál til sín taka í orði og verki; og enginn hefur hingað til orðið til að mótmæla því. Allir, sem hugsa nokkuð meira en daginn og veginn, hver einasti maður, sem viðurkennir, að oss beri að elska bræður vora, ekki með orði og tungu, heldur í verki og sannleika, hljóta að finna og skilja, að þetta mál snertir oss á sjerstakan hátt. Það er nú trauðla nokkur maður á Íslandi, sem ekki eigi einhvern ættingja eða fornkunningja í Vesturheimi. Íslendingar vestan og austan hafs eru tvær greinar á sama stofni; blómgist önnur, hefur það blessunarrík áhrif á hina; fölni önnur, þá er hinni hætta búin. Að lúterska íslenzka kirkjufjelagið sje í þröng, verða allir að sjá. Óvinir þess sækja að því á allar hliðar, öll

meðul eru notuð af andstæðingum þess til að eyðileggja hið mesta þrekvirki og kærleiksverk, sem nokkur íslenzkur prestur hefur unnið: það að samansafna löndum sínum í hinni miklu tvístrun (diaspora) þar vestra undir merki sannrar og lifandi trúar. Til þess hefur hann lagt í sölurnar tíma sinn og efni, krapta og heilsu; og þó margir hafi stutt hann með mikilli sjálfsafneitun og drengskap, þá hefur hann borið langt af öllum með sínum kærleikseldi og öðrum aðdáanlegum hæfilegleikum. Jeg þarf ekki að taka það fram, að þessi maður er sjera Jón Bjarnason. Nafn hans stendur fyrst á blaði fyrir öllum framförum og og kristilegu lífi og fjelagsskap vestur þar, og straumar þessa lífs hafa óneitanlega náð til kirkju vorrar hjer heima. Jeg nefni hjer sjera Jón Bjarnason, því að skólahugmyndin er hans, og hann hefur komið henni ótrúlega langt á leið þrátt fyrir hina beiskustu mótspyrnu andstæðinganna. En er vjer sjáum, hvað einn maður orkar, sem með lífi og sál stendur að verki sínu, maður, sem vjer að öðru leyti erum í mikilli skuld við, hvað mundum vjer þá ekki geta allir í sameining, ef Jesús Kristur og kristindómsins kærleiksandi væri lifandi hjá oss? Það er nú almennt viðurkennt vestan og austan hafs, að íslenzka lúterska kirkjan í Vesturheimi muni tæpast geta vonazt eptir vexti og viðgangi, nema hún komi á stofn æðri menntunarskóla til að mennta unga menn á sínu móðurmáli, og undirbúa þá til starfsemi í þarfir kirkjufjelagsins. Þetta hefur reynzt hið áhrifamesta og heillavænlegasta ráð í öllum kristilegum landskirkjum þar vestra, svo að tæpast má heita, að nokkurt kirkjufjelag standi þar á föstum grundvelli, ef slíka menntastofnun vantar. Danir, Svíar og Norðmenn, og þó einkum Þjóðverjar, eiga margar og stórkostlegar þess kyns menntastofnanir, og heimalöndin hafa álitið það helga skyldu sína, að leggja fje til styrktar þeim bæði af almannafje og af frjálsum samskotum. — En vjer höfum ekkert gjört í þessu efni, þó vjer sjáum hina brýnu þörf og hve tiltölulega fáum mönnum, sem í kirkjufjelaginu eru, er þetta stórvirki ofvaxið. Nú hefur þjóðflokkur vor vestra fengið almennt orð á sig meðal einhverrar hinnar menntuðustu og praktiskustu þjóðar heimsins fyrir starfsemi, dugnað og námfýsi, og ættum vjer þá ekki að verða fyrstir til að styðja þetta álit á þjóðflokki vorum með eindreginni og fljótri hjálp til að koma þeirri

menntastofnun á fót, þar það ekki einungis yrði til að efla álit þjóðflokks vors í augum Ameríkumanna, heldur bætti úr tilfinnanlegum skorti og ynni honum hið mesta gagn í öllu tilliti. Rísum því upp allir sem einn maður, yngri sem eldri, til að leggja hönd á þetta verk. Látum ekki bræður vora bíða lengur eptir hjálp vorri, er vjer hefðum átt að veita fyrir löngu. Fyrst það óefað er velferðarmál kirkjufjelagsins vestra, þá er það einnig óefað velferðarmál kirkjunnar heima á Íslandi; og það er trú mín, og margra, sem betur sjá en jeg, að þessi skólastofnun muni með tímanum hafa góð áhrif, ekki einungis til glæðingar kristilegri trú meðal þeirra, sem í þjóðkirkjunni standa vestan og austan hafs, heldur muni hún einnig draga marga inn í kirkjufjelagið af flokki þeirra, sem nú eru andstæðingar og mótmælendur þess.

Þar sem nú mál þetta er þannig vaxið, verður að búast við, að allir prestar vilji sinna því af alhuga, eins og það er varla efamál, að vjer eigum fjölda-marga leikmenn, sem munu stuðningsmenn þess, enda ætti það að sýna sig á hjeraðsfundunum á þessu sumri, því jeg tel víst, að þeir taki það allir mótmælalaust á dagskrá sína.

Hið þriðja er *kristniboðsmálið*.

Sannarlega er það mál hins nýja boðorðs; mótmælalaust er það öndvegismál kristilegs kærleika. Kristniboðendur hafa allt frá tímum Páls postula og allt til þessa dags verið útvaldir stríðsmenn drottins, útvaldir með lifandi trú og sjálfsafneitun, fúsir til að leggja lífið í sölurnar fyrir Krists nafns sakir. Mótmælalaust eru þeir viðhald og máttarstólpar Krists kirkju á jörðinni. — Vjer Íslendingar erum sorglega lítið kunnugir þessu stórkostlega kærleiksmáli kristilegrar kirkju, og höfum þá líka farið á mis við hina miklu andlegu blessun, sem kynning þess veitir trúaðri sálu. Að því er þetta mál snertir, höfum vjer verið eins og inniluktir í andlegu fangelsi vanþekkingar og afskiptaleysi, án þess að vita hið minnsta, hvað í heiminum gjörist í þessu efni. Allar aðrar landskirkjur halda úti mörgum tímaritum, sem nálega daglega skýra frá markverðum viðburðum frá kristniboðsakrinum, og kristnir söfnuðir reita sig til að gefa enda ríkmannlega af fátækt sinni til stuðnings og framkvæmdar þessu kærleiksmáli.

það munu nú margir segja, enda þeir, sem alls ekki vilja spilla fyrir þessu máli, að það sje á óhentugum tíma uppborið, þar sem bæði sje hart í ári, verzlunarkjör með lakasta móti og peningaskortur í landinu, að þegar litið sje á kjör almennings yfir höfuð og með sjerlegu tilliti til þess, að flesta mun langa til að sinna skólamálinu sem bezt, þá sje það mesta ofætlun og vanhugsun að ætlast til þess, að bæði þessi mál geti fengið greiðar undirtektir hjá alþýðu; það sje betra að sinna einu máli vel en tveimur illa, og ekki hafi því hingað til verið hrósað að vera „gæs í öllu“ (goose in all); og annað fleira þessu líkt.—En þessi og því-lík ummæli eru engar nýjar viðbárur; það er eldgamall söngur, sem því miður er orðinn að þjóðlagi hjá oss. það er ekki vandræði að finna ástæður, þegar maður vill hlífa sjer og vill ekki vera með. Jeg ætla og öldungis ekki að ganga móti þessum viðbárum, en jeg vil leyfa mjer að fullyrða, að vjer sjeum ekki svo fátækir, að vjer getum ekki, ef vjer viljum vel, sinnt sómasamlega báðum þessum málum í einu. þegar vjer á annað borð erum komnir á þá sannfæringu, að mál þetta sje þess vert, að hin íslenzka þjóð taki það alvarlega til greina, þá verðum vjer um leið sannfærðir um, að vjer *getum* það. það er sannfæring hjartans, sem leggur efnin í hendurnar. Enginn vonast eptir miklum framlögum, sízt svona í byrjuninni, frá hinni fámennu þjóð vorri, en það getum vjer verið vissir um, að öll kristileg kirkja í heild sinni vonast eptir nokkru, og er lengi búin að vonast eptir því. það er og ætlun mín, að hvergi annars staðar í hinum kristna heimi sjeu sjötíu þúsundir manna saman komnar á einum bletti, sem ekki leggi neitt til þessara mála. Setjum nú, að það teldist svo til, að hvert mannsbarn á landinu gæfi 3 aura, þá mundi engan einstakan muna það neinu; en hvert kristniboð munar mikið um 2—3 þúsundir króna. það mætti kalla svo, að gjöfin frá hverjum einum væri svo sem ekkert, en enginn af oss getur sagt, hve miklu hin samanlagða gjöf kynni að muna. Setjum svo, að vjer værum fátækari en allar aðrar sjötíu þúsundir í heiminum. Nú, jæja! gefum þá af fátækt vorri, og fyrir það verðum vjer oss ekki fremur til minnkunar en ekkjan, sem forðum lagði tvo smápeninga í fjehirzlu guðs (Lúk.21,4). — Heyrið þjer ekki allir rödd í brjóstum yðar, er segir: Legg þú á djúpið, út á kærleiksdjúpið, til að frelsa sálir frá dauða.

Leggjum þá allir út á djúpið. Það er rödd drottins vors, er kallar oss. Enda þótt hann kalli oss á níundu, og ef til vill á elleftu stundu, enda þótt vjer heyrum hann segja: „Hví standið þjer hjer allan daginn iðjulausir?“— þá segir hann þó: „Farið þjer í víngarð minn, og það, sem rjett er, munuð þjer fá til launa“. Hinir síðustu geta orðið fyrstir eins og hinir fyrstu síðastir. Það er að vísu ofur-lítill skattur, sem vjer leggjum á oss, kristnu vinir, en svo lítill, að vjer vitum ekki af því, og erum jafn-ríkir eptir sem áður af þessa heims gæðum. En drögum í guðs bænum ekki lengur að gjalda hann. Því það er heilagur skattur, kærleiksskattur, sem vjer höfum dregið undan í mörg ár. Oss ber því nú, einmitt nú, að leggja út á djúpið; það er aldrei svo lítið, sem vjer fáum til hlutar, að það sje ekki margfalt hættumeira, já saknæmara, að bíða lengur byrjar. Hugsum öldungis ekki um fátæktina, ómöguleg-leikana, verzlunarkjörin, peningaleysið, eða um það, að vjer þurfum að rjetta einhverjum öðrum hjálparhönd, eða að vjer verðum að gjöra það og það fyrir sjálfa oss, því á meðan vjer erum að velta þessu fyrir oss, ölum vjer upp í oss kærleiksleysið, nærsýnina og nápínuskapinn, sem aldrei hefur neitt til að leggja, hvernig svo sem á stendur, og hversu hátt sem guð og menn kalla. Leggjum allir út á kristniboðsdjúpið. Hikum oss ekki lengur. Vjer höfum ekkert til afsökunar. Yfirgefum strendur vandræðanna, strendur frægðarlausrar kyrrsetu, og leitum oss kristilegs frama og frægðar með því að ferðast í anda með öðrum kristnum mönnum til fjarlægra stranda, til þjóðanna, sem sitja í myrkrinu, og leggjum vorn lítinn skerf þar í guðs fjehirzlu. Og vjer tökum það inn með annari hendinni, sem vjer gefum með hinni, því með þessu flytjum vjer kristniboðsmálið í voru eigin landi. Vjer búum því griðastað í hverri kirkjusókn og á hverju einasta heimili. Hinn árlegi kærleiksskerfur til heiðingja-landanna verður árlegur kærleiksfjársjóður safnaðanna. Og slíkt mál, sem þetta, vona jeg að hjeraðsfundir taki á dagskrá sína.

Undirfelli, í Októbermánuði 1892.

## „*AÐ MEÐTAKA SÍN GŒÐI Í LÍFINU*“.

## PRÉDIKAN

Á FYRSTA SUNNUDAG EFTIR TRÍNITATIS,

eftir *J. C. Heuch*, áðr prest í Kristjaníu, nú biskup í Kristjánssandi í Noregi.
Þýdd af ritst. „Sam.“ J. Bj.

Texti: Lúk. 16, 19—31 (Ríki maðurinn og Lazarus).

Af öllum guðspjöllum kirkjuársins er guðspjallið fyrir sunnudaginn í dag vissulega það, sem mannhræddr prestr allra sízt myndi vilja útskýra. Því hvað í boðan kristindómsins œsir og eggjar tíðarandann fremr til mótmæla en þetta, sem guðsorðið fyrir daginn í dag óneitanlega inniheldr: að til er kvalastaðr fyrir þá, sem ekki deyja í drottni,—að þessi staðr opnast þeim tafarlaust eftir dauðann,—að kvölunum þar er að líkja við eldsloga, —að djúpið, sem aðskilr þennan stað frá paradís, verðr eigi yfir stigið,—að einnig allt aðrir menn en afhrök mannkynsins, stórglœpamennirnir, opna augu sín í þeim kvalastað? Getr nokkur neitað því, að prédikanin, sem drottinn Kristr flytr oss hér, er einmitt það, sem raddir tíðarandans kalla helvítis-prédikan? Og er því þá haldið fram, að slík prédikan sé hjartalaus, sjúk af löngun í að fordœma, heimskuleg og þvert ofan í alla skynsama þekking á guði, er eigi geti viljað fordœma nokkra skapaða skepnu sína. Sá þjónn, sem hér með trúmennsku flytr orð drottins síns, án þess að draga þar nokkuð undan eða bœta þar nokkru við, má við því búast fyrir bragðið, að óvild sú, sem menn ekki þora að láta lenda á drottni svo að á beri, komi niðr á sér, og það því harðara sem honum tekst betr að láta sannleiks-brodd hins guðdómlega orðs smjúga inn í samvizkur tilheyrandanna. Það er því mjög auðskilið, að prestr sá, er hræðist menn, yrði feginn að mega ganga þegjandi fram hjá þessu guðspjalli.

Reyndar hefi eg nú þá von um sjálfan mig, að mér sé óhætt að segja, að eg hafi lært að óttast dóm drottins yfir kenning minni svo mikið, að mér standi hér um bil á sama, hvort orð mín láta mönnum vel eða illa í eyrum. Engu að síðr óska eg þess í dag fremr en nokkru öðru sinni, að dyljast á bak við drottin, svo að þér algjörlega gætuð gleymt mér út af vissunni um það, að það, sem þér heyrið, er alls eigi *mín* skoðun, *mín* orð, heldr opinberan *drottins* og dómr *drottins*. Eg óska þess ekki

mín vegna; það gjörir mér lítið, þótt þér talið illa um mig. En yðar vegna óska eg þess, svo að þér ekki fáið tilefni til sökum gallanna á kenning minni að vinda yðr undan drottni, er hann í dag snertir samvizkur yðar. Eg ætla því að leitast við, að halda mér svo fast, sem mér er unnt, við orð og hugsan textans. Og með því að til eru þeir menn, sem spaklega hafa komizt að því, að orðið „helvíti" standi eiginlega hvergi í frumtextanum, þá ætla eg alveg að sleppa því að viðhafa þetta orð. Hinu getr enginn neitað, að skrifað stendur, að ríki maðrinn hafi verið í „kvölum", þá er hann opnaði augu sín eftir dauðann; og svo hugsa eg honum standi alveg á sama, hvort kvalastaðr hans er kallaðr *gehenna* eða *hades*, helvíti eða ríki hinna dauðu.

---

Af hinu há-alvarlega efni í þessari frásögu drottins er þetta. ef til vill, alvarlegra en allt annað, að ríka manninum er alls ekki lýst sem lastafullum manni. Væri honum lýst eins og ágjörnum, lauslátum, miskunnarlausum, grimmum manni, þá gæti allir hæglega látið vera að sjá mynd sinnar eigin æfisögu sýnda í sögu hans. Því hver skyldi vilja gangast við því svona rétt með sjálfum sjer, að hann lifi lastafullu lífi? En nú segir drottinn alls ekkert eiginlega illt um ríka manninn. Þú getr verið allra heiðarlegasti maðr, og þó verið eins og hann. Ef til vill, getr hvorki þú né aðrir fundið neina sérstaka ástæðu til, að þú þurfir að óttast glötunina. Og þó getr hlutskifti ríka mannsins orðið þitt. Eða er ekki svo, að þá er vér leitum eftir orsökinni til þess, að ríki maðrinn hlaut að opna augu sín í kvölunum, þá sýnist býsna ervitt að finna hana? Það stendr ekkert um það, að hann hafi aflað sér auðæfa sinna með rangindum eða á annan hátt gjört sig sekan í nokkrum glæp. Hafi hann, þá er hann „lifði hvern dag í dýrðlegum fagnaði", gjört sig sekan í ofáti, drykkjuskap og frillulifnaði, þá getr þetta að minnsta kosti ekki hafa verið hin eiginlega orsök glötunar hans; því þess er alls eigi getið í frásögunni. Ekki hafði hann heldr verið ágjarn og harðbrjósta maðr, því hann lét fátæklinginn Lazarus, kaunum hlaðinn, liggja við húsdyr sínar; en oss skilzt vel, að hefði ríki maðrinn verið harðbrjósta, myndi hann ekki hafa leyft Lazarusi að liggja á þeim stað, þar sem hin viðbjóðslegu kaun hans og sár ávallt urðu fyrir augum hans, er hann gekk inn í hið

skrautlega hús sitt. Og hefði hann ekki all-örlátlega látið úthluta leifunum frá borði sínu, þá myndi Lazarus eigi hafa sókzt eftir að liggja einmitt fyrir hans dyrum og með því koma honum til að veita sér eftirtekt. Ekki heldr höfum vér ástœðu til að ætla, að hann hafi haft tilfinning fyrir öðrum að eins þar, sem hann, eins og að því, er snertir Lazarus, gat eigi látið vera að sjá eymd þeirra; sá maðr, sem er að hugsa um brœðr sína á jörðunni, eftir að hann sjálfr er kominn í kvalirnar, getr vissulega ekki, meðan hann lifði hér, hafa verið án hluttekningar í böli meðbrœðra sinna. Mun hann þá hafa verið fordœmdur fyrir þá sök, að hann var maðr auðugr? það er óhugsanda; því Abraham hafði líka verið stór-ríkur. Eða fyrir þá sök, að hann „klæddist purpura og dýrindis líni“? það er jafn-óhugsanda, því Davíð, maðrinn eftir hjarta guðs, hafði líka verið klæddr í purpurabúning.

Hvað skyldi það þá hafa verið í lífi þessa meinlausa manns, er ekki var hnegðr til nokkurra eiginlegra glœpa, sem gat valdið því, að hann eftir dauðann opnaði augu sín í kvölunum? Vér finnum að eins eina ástœðu tilfœrða í frásögunni, það er að segja þessa, að hann „*hafði meðtekið sín gœði meðan hann lifði*“[1]. „Minnstu þess, sonr“, segir Abraham „að þú meðtókst þín gœði meðan þú lifðir, en nú verðr þú kvalinn“. Hér er ekki eitt orð um það, að meira þurfi til þess að glatast en þetta, að hafa notið sinna gœða á hinni jarðnesku æfi sinni; þvert á móti tekr Abraham það fram, svo sem það, er hljóti að verða og ekki geti verið öðruvísi, að sá, sem hafi notið sinna gœða hér í lífi, hljóti að kveljast eftir dauðann. Svo framarlega sem vér blátt áfram höldum oss við orð drottins án þess að bœta nokkru við frá sjálfum oss, hljótum vér að játa því, að hér er greinilega kennt, að maðr geti glatazt enda þótt hann hafi margt gott við sig, fyrir þá sök, að alls ekki útheimtist neitt annað eða meira til þess að geta glatazt en þetta, að vér meðtökum gœði vor hér í lífi.

þar sem guðs orð kennir þannig, þá getr það þó með engu móti verið svo að skilja, að sérhvert farsælt líf á jörðinni endi-

---

1) I íslenzku biblíunni nýjustu (brezka biblíufélags útgáfunni) stendr: „Þú nauzt hins góða í lífinu“, og er það mjög ónákvæm þýðing þess, er stendr í frumtextanum gríska, sem aftr á móti er alveg rétt þýddr í hinni norsku biblíu-útgáfu, er Heuch fer eftir í prédikan þessari.

Þýð.

lega hafi glötun eftir dauðann í för með sér, svo að stundleg velvegnan náist eigi nema því að eins, að maðr leggi sáluhjálpina í sölurnar, og hlyti þá hver alvarlegr maðr að fyllast kvíða, þá er guð veitti honum einhverja góða gjöf. Og þá værum vér neyddir til að sækjast eftir kvölum og steypa oss í eymd og alls ekki láta oss nœgja, að berjast fyrir því að bera með þolinmœði þrengingarnar, sem hinn agandi kærleikr drottins, en ekki hinn náttúrlegi vilji vor, leggr oss á herðar. En allir vita, að þetta er eigi kenning ritningarinnar; hún áminnir oss þvert á móti um það, að „þakka guði föður fyrir *alla* hluti", og þá ekki að eins fyrir það, sem eilíft er; hún kennir oss, að „öll skepna guðs er góð og engin burtkastanleg, sé hún þegin með þakkargjörð"; hún leggr oss í munn bœnina um daglegt brauð og kemr með þann boðskap, að „öll góð gjöf komi að ofan frá föður ljósanna". En þar sem það nú engan veginn getr verið hugsan ritningarinnar, að ríki maðrinn hafi kvalizt eftir dauðann af því að honum vegnaði vel hér í lífi, hvað getr hún þá átt við, er hún jafn-óneitanlega tekr það fram, að hann hafi „meðtekið sín gœði meðan hann lifði" sem einu orsökina til glötunar hans.

Hugsun ritningarinnar er sú, að allt það, sem ríki maðrinn þekkti, hafði tilfinning fyrir og mat sem gœði, heyrði þeim hlutum til, sem að eins verðr notið í þessu lífi. *Sín* gœði varð hann að meðtaka meðan hann lifði hér; því það, sem maðr getr tekið með sér í dauðanum, þekkti hann ekki sem nein gœði; þá er hann hafði skilið við lífið á jörðunni, var hann um leið skilinn við þann stað, þar sem hann hafði öll sín gœði. Í augum hans hafði að eins hið holdlega og áþreifanlega haft virkilegleik. Að það var gott að lifa eins og hann dag hvern í dýrðlegum fagnaði, og að það var vont að liggja eins og Lazarus, hlaðinn kveljandi kaunum, það hafði honum vel skilizt; því gátu og önnur eins bágindi og Lazarusar vakið meðaumkan hans. En það, að hann, ríki maðrinn, gat þurft á meðaumkan Lazarusar að halda, fyrir þá sök, að honum fannst það ekki nein gœði að hafa þann guð, er hjálpaði Lazarusi til að bera byrði lífsins, — það myndi honum hafa virzt hlœgilegt. Hann vissi alveg vafalaust, að það voru mikil gœði, að mega án ótta fyrir skorti horfa fram til elliáranna, en að það gæti verið gott að safna fjársjóðum fyrir eilífðina, það virtist honum að eins hégómamál. Um eilífðina

og það, sem henni heyrir til: dóminn, eilíft líf, sáluhjálpina—hefir hann vafalaust hugsað, að enginn gæti vitað neitt með vissu. Eilífðin hefir staðið fyrir hugskotssjónum hans eins og óleysanleg ráðgáta eða eins og dimm þoka, sem varpar hjúpi yfir allt og alla, án þess að nokkur einn hafi nokkru sinni komið þaðan til baka til að segja oss, hvað hún geymir í skauti sínu, því er allt gleypir. Það guðs orð, sem vér sjáum hann fyrirlíta enn, eftir að í kvalirnar var komið, hefir hann eðlilega enn þá meir fyrirlitið á jörðunni. Gœðin, sem guðs orð bauð honum: aftrhvarf, trú, náð, synda-fyrirgefning, líf í samfélagi með guði, reynd guðs kraftar í veikleik trúaðra, réttr guðs barna til að erfa sálupjálpina — allt þetta hefir í augum hans ekki verið nein gœði, heldr tómar ímyndanir, og allt til samans tekið var það ekki eins mikils virði fyrir hann eins og að lifa í dýrð og fagnaði einn einasta dag. *Fyrir hann var guðs ríki ekki til, og svo gat hann þá ekki heldr verið til fyrir guðs ríki.*

Hugsaðu þér svo þennan mann á því augnabliki, er hann er nýdáinn. Mun sú breyting, sem að eins er líkamleg og sem er fólgin í því, að auga hans brestr og hjarta hans hættir að slá, hafa getað gjört hann að öðrum manni? Er það líklegt, að hann, sem nokkrum mínútum áðr að eins þekki sársauka líkamans sem böl fyrir sig, og auð sinn í þessum heimi sem sín einustu gœði, hafi nú allt í einu orðið fyrir þeirri breyting, að allt, er hann áðr hafði fyrirlitið, hafi verið orðið honum dýrmætt, og allt það, er áðr hafði verið honum dýrmætt, einkis virði? Er ekki miklu sennilegra, að þá er hann opnaði augu sín og fann eilífðina slíta sig frá öllu, er hann skoðaði sem gœði fyrir sig á jörðinni, hafi hann hlotið að finna til óendanlegs saknaðar, kveljandi löngunar eftir öllu því, sem hafði verið innihaldið lífi hans, svo að vöntunin hafi nú hlotið að finnast honum eins og óendanlegur tómleikr? Vér þurfum jafnvel eigi að hugsa um hina háværu dómsrödd hinnar vaknandi samvizku, sem engar heimsraddir framar gátu deyft. Vér þurfum ekki að draga það með inn í hugsan vora, hvernig hann nú, er það var orðið of seint, hlýtr að hafa fundið til þess, að það voru til gœði, er hann hefði getað tekið með sér í dauðanum. Hitt er nóg, að vér höldum oss að því eina, er ritningin nefnir, að hann hafði öll sín gœði á jörðunni, og skilst oss þá vel, að hann hlut að finna sig

glataðan, þar sem alls ekkert það var til, er hjarta hans þekkti sem gœði. Ó, þú skilr víst, ef þú að eins vilt skilja það, að það er sannleikr hið fornkveðna, að ríka manninum myndi hafa fundizt hann vera í helvíti, þótt guð hefði getað sett hann inn í himnaríki, með því hinn helgi fögnuðr hinna hólpnu í guði og undirgefni þeirra undir vilja hans í samfélagi hins fullkomna kærleika hefði hlotið að vera viðbjóðr hinu guðlausa og óstýriláta hjarta hans, þar sem þau gœði, er hann þekkti eins og sína einustu eign, áttu þar eigi heima.

Jú, víst skilr þú það, því mér myndi stórlega skjátlast, svo framarlega sem eigi hafa verið þær stundir í lífi þínu, er þú ósjálfrátt fannst til þess, að sá maðr, sem hefir sín gœði í þessum heimi, getr eigi í dauðanum inngengið í guðs ríki.

En þótt þú viljir eigi við það kannast, að þú sért nú einmitt maðrinn, sem hefir öll sín gœði í heimi þessum, þá þekkir þú þó eflaust fleiri en einn, er þú hiklaust munt segja þetta um: „það er mesti meinleysingi, en að hann nokkurn tíma láti hugsan sína og hjarta komast út yfir þau málefni sjálfs sín og annarra manna, sem að eins snerta hið veraldlega, eftir því hefir vissulega enginn tekið.“ Og hafi svo einhvern tíma komið alveg flatt upp á þig fregn um það, að þessi kunningi þinn, er þú fyrir örskammri stundu talaðir við á götunni, væri snöggdáinn, kenndir þú þá ekki, fyrst meðan þú varst undir hinum skelfandi áhrifum þessara tíðinda, undir niðri hálfvegis til ótta fyrir því, hvernig örlög þessa manns kynni að hafa orðið í dauðanum? Stóð þér ekki ósjálfrátt stuggr af að hugsa um það, ef þú værir í hans sporum, og það enda þótt þú, ef til vill, hefðir skömmu áðr öfundað hann? Þú bældir reyndar þessa tilfinning brátt niðr, ávítaðir jafnvel sjálfan þig fyrir það að hafa hugsað svo illt um hinn burtfarna, og þér fannst sú hugsun bera vott um harðneskju hjarta þíns, og þú komst þér rétt strax niðr á þeirri sannfœring, að enda þótt hinn látni ekki gæti sagzt tilheyra hópi guðhræddra manna, þá væri hann þó langt um of góðr til að geta orðið fordœmdr. En því munt þú þó naumast geta neitað, að fyrstu beinu áhrifin, sem hinn óttalegi atburðr hafði á þig, voru þau, að það væri voðalegt að deyja eins og þessi maðr. Og ef þú svo fám dögum síðar við greftran hans skyldir hafa heyrt prest tala um hann svo sem þann, er barizt hefði hinni góðu baráttu trúarinnar og væri síðan genginn inn í fögnuð herra síns, þá beinlínis hneykslaði þetta þig; svo viss varstu um það, að þessi um-

mæli væri ósannindi. Og þú greipst sjálfan þig næstum í því, að vera farinn að brosa að þeirri hugsan, hvernig þessi maðr, sem allt til síðustu stundar ekki hafði haft vit á öðru en hinu jarðneska starfi sínu, hafi hlotið að líta út í hópi heilagra fyrir hásæti guðs. Það getr og komið fyrir hér við gröfina, að þú dœmir sjálfan þig fyrir að láta annað eins detta þér í hug; en þú fær þar eigi við gjört. Samvizka þín hefir með langt um of sterku afli kennt þér þann sannleik, að sá maðr, sem hefir öll sín gœði hér í heimi, á engin gœði á himnum. Neitaðu svo ekki þessu, sem þú í raun og veru veizt svo vel: Hvorki hræðslu-tilfinning sú, er allt í einu greip þig við fregnina um það, að kunningi þinn væri látinn, né heldr það, hve sterklega þú ávítaðir þig fyrir það að hafa í hjarta þínu fellt yfir honum dóm, átti rót sína að rekja til kærleiks þíns til hans. Það var í raun og veru samvizka þín, er máttinn fékk til að slá þig og vitna fyrir þér, svo að þú fannst, að þú myndir vera þar sem kunningi þinn er nú, ef þú hefðir dáið hina sömu nótt; og það var hin vanalega ákefð þín í því að þagga hina vakandi eamvizku niðr, sem kom þér til þess tafarlaust að sjá kærleiksleysið í dómi þínum yfir hinum látna. Það var ekki hann, heldr þú sjálfr, sem þú vildir forðast að dœma, jafnskjótt og þú fékkst tíma til að sefa óró þá, er hin hræðilegu tíðindi vöktu í samvizkunni, þá er þau hittu þig óviðbúinn. Því að þá er einhver maðr neyðist til að segja sjálfum sér sannleikann, veit hann ávallt með fullri vissu, að þar sem einhver hefir fjársjóð sinn og setr í hann sáluhjálp sína, þar hlýtr hann og að hafa hjarta sitt.

En á þá sá, sem hólpinn vill verða hjá guði, að varast að láta nokkuð verða sér kært á jörðinni? Er það heimtað, að guð sé hinn eini fjársjóðr hjarta hans, þannig, að hann skuli ekki kæra sig um nokkurn skapaðan hlut í heimi þessum og verði að óttast um sálu sína í hvert skifti sem hann tekr eftir því, að eitthvað það, er þessu lífi tilheyrir, verðr honum kært? Á t. a. m. afstaða kristins manns, ef rétt skal vera, við hið jarðneska starf hans að vera þannig, að hann að vísu vinni það með trúmennsku fyrir þá sök, að drottinn hefir fengið honum það, en þó með eins lítilli ást til þess og áhuga á því, eins og guð hefði gjört það að ætlunarverki lífs hans að ausa vatn með sáldi? Því fer fjarri. Þá er ritningin segir: „Elskið ekki heiminn eða þá hluti, sem í honum eru; ef einhver elskar heiminn, þá er kærleikr föðursins ekki í honum“, — þá er þar að eins átt við þann kærleik, sem setr heiminn *í staðinn fyrir* guð, en alls

eigi þann kærleik, er elskar heiminn í guði. Því það getr þó með engu móti verið hugsanin, að því meiri kærleik sem einhver fær til guðs, því minni eigi kærleikr hans að vera til heims þess, sem guð hefir elskað svo, að hann gaf son sinn eingetinn honum til frelsis. Enginn getr gjört verk sitt svo, að það verði að guðsþjónustu, nema hann beri kærleik í brjósti til þess verks. Það, sem guð heimtar af börnum sínum, hvað sem hann lætr lífskjör þeirra verða, er nefnilega ávallt þetta einmitt, að þau flétti hinn helga kærleik hans inn í sitt eigið líf og beri málefni hans fram gegn öllu því, sem í hjörtum sjálfra þeirra og fyrir utan þau í heiminum er því til hindrunar, að þessi kærleikr vinni sigr. En hvernig ætti nokkur að fá kennt heiminum kærleik og beitt honum gegn heiminum, svo framarlega sem sá hinn sami maðr eigi hefir ást á kærleikanum? Guð setr börnum sínum aldrei neitt það fyrir, sem í sjálfu sér hefir enga þýðing og að eins á að vera til þess að venja þau til hlýðni. Hann fer eigi að við börn sín eins og faðir, sem til þess að kenna syni sínum að reikna setr honum sitthvað fyrir, er enga aðra þýðing hefir að fá úrlausn á en það, að kenna barninu reiknings-kunnáttuna. Nei, eins víst og kærleikshugsanir guðs stjórna lífi heimsins og hann hefir allt til þess að gjöra undirbúning að því, að ríki hans komi í dýrð þess, þá skulu og börn hans vita, að verk þeirra, hversu lítið sem það kann að sýnast, hefir þó gildi sitt og göfugleik fyrir þá sök, að þau eru samverkamenn guðs og þjónar hans kærleika. Þau hljóta þá að elska mannfélag það, er guð hefir sett þeim að vinna í, heimili það, þar sem frækorn kærleikans bera mestan ávöxt, þjóð þá, er þau skoða sig sameinaða eins og limina á líkamanum, heim þann, sem á óteljanda hátt minnir þau jafnmikið á guð og hann hvetr þau til að vinna hans verk — með fegrð sinni og fallveltu, með speki sinni og mætti, með synd sinni og neyð, með hæfilegleik sínum til að fullnægja svo margri kröfu sálarinnar, og með vannmætti sínum til að seðja dýpstu löngun hennar.

En hvernig eiga guðs börn þá að komast hjá því, að hafa mörg gæði í heimi þessum? Allt það, sem vér höfum kærleik til, þykir oss auðvitað gott. Já, svona er það: Guðs börn hafa *mörg* gæði í þessum heimi, en *sín* gæði, eða það, sem er hið eiginlega líf þeirra, hið eina, sem þau örvæntingarlaust ekki geta án verið, það, sem kærleikr þeirra fær allan sinn kraft frá og sem gjörir alla aðra hluti þess virði, sem þeir eru, það hafa þau ekki í þessum heimi. Því

hin sönnu gœði guðs barna er guð sjálfr með allri þeirri náð, sem hann hefir opinberað í Kristi og sem hann veitir þeim með því í samfélagi andans að láta líf sitt streyma inn í hjörtu þeirra. Þessi sín gœði meðtaka þau eigi að eins hér í lífi, heldr verða þau þvert á móti í fylling sinni einmitt hlutskifti þeirra í eilífðinni. Fyrir því verða þeir menn eigi snauðir í dauða sínum: þá fær einmitt lífið þeirra, sem áðr hefir verið þjáð og niðrbœlt af byrði syndarinnar, tœkifœri til þess að ná fullum og frjálsum þroska, og jafnvel þau verk, sem þeir hafa tamið sér hér í heimi, fylgja þeim, fyrir þá sök, að þau hafa í sér hið eilífa frjóvgunarafl kærleikans; þau voru í guði gjörð. Með hjarta því, er guðs barn fyrst af öllu hefir gefið guði, elskar það þá heiminn eins og guð elskar heiminn. Svo framarlega sem slíkr maðr gjörir þetta, dregr kærleikrinn hann eigi frá guði, heldr til guðs; því að það er guð, sem guðs barnið elskar í öllu sköpunarverki hans. Sá maðr aftr á móti, sem gefr heiminum hjarta sitt í staðinn fyrir guði, fær heiminn fyrir sinn guð. Því fær hann og öll sín gœði í þessum heimi, og því er það og, að hann er án guðs í lífinu og án guðs í dauðanum, og hinum megin skilr hann ekki fremr en hérna megin né kannast við hina dýpstu þörf sálar sinnar, að lifa í sameining við kærleik guðs.

Sjáið ríka manninn, er hann hóf upp augu sín í kvölunum. Hvað er það, sem hann kvartar um? Ekki um aðskilnað sinn frá guði, heldr um hina brennandi löngun sína eftir heiminum, þar er hann hafði öll sín gœði. Hvaða huggun er það, sem hann óskar eftir? Ekki synda-fyrirgefning og náð, heldr einn dropi af þeirri nautn, er hann var vanr að sefa hinar brennandi ástríður sínar með. Hverjum kennir hann um eymd sína? Ekki sjálfum sér eða synd sinni, heldr guði og því, hve ónógar sé frelsisráðstafanir hans. Hann finnr til ófarsældar sinnar, en ekki til sektar sinnar. Hann aumkast innilega yfir sjálfan sig, en hann dœmir ekki sjálfan sig. Í kvölunum eftir dauðann breytir hann alveg eins og hann hlýtr að hafa gjört meðan hann á jörðinni kveinaði undan sjúkdómsþjáningunum; einnig þá, getr vel verið, að hann hafi beðið um vægð án þess að hafa nokkurn grun um það, að sátt sálarinnar við guð var sú hjálp, sem hann þurfti að fá; einnig þá, getr vel verið, að hann hafi fundið til þess, að nú varð eigi framar neins þess notið, er hann kallaði sín gœði; en þá alveg eins og í kvölunum hefir hann kvartað um guð, en ekki sjálfan sig. Eða munum vér hafa hann fyrir rangri sök, er vér segjum, að ákæra gegn guði felist í þessu orði

hans: „Eg bið þig, faðir, að þú sendir Lazarus í hús föður míns, því eg á fimm brœðr, svo að hann vari þá við, að ekki komi þeir líka í þennan kvalastað“? Því með þessum orðum tekr hann það greinilega fram, að ef guð að eins hefði vitað eins vel og hann, hvað gjöra þarf til þess að menn fái komizt hjá því að glatast, og að væri guð að eins eins miskunnsamr og hann, þá myndi hann aldrei hafa lent í þennan kvalastað. Æfinlega hafði hann haft vit á því að finna afsakanir, þá er um það var að rœða, að hafna hjálpræðis-tilboði guðs, og vaninn hafði gjört hann hálærðan í þeirri íþrótt, að láta þverúð hjarta síns dyljast undir ábreiðu fagrgalans, er hann gat dregið sig á tálar með. Og þessa íþrótt kann hann enn þá. Það lætr svo undr vel í eyrum, að heyra hann í sínum eigin kvölum hafa tilfinning fyrir hættu brœðra sinna og vera að hugsa um að frelsa þá; en á bak við þessa vingjarnlegu bœn felst þó svona lögguð ákæra: „Hví var enginn úr hópi hinna framliðnu sendr til mín, meðan eg var saman með brœðrum mínum í húsi föður míns, til þess að hann fengi varað mig við, að eigi skyldi eg lenda í þennan kvalastað?“ Hann er ófáanlegr til að sleppa rétti sínum til svona lagaðrar ákæru; í kvalastaðnum alveg eins og á jörðinni sýknar hann sjálfan sig, en slengir sökinni upp á guð.

Og orsökin til þess, að hann getr gjört þetta, er nú sem fyr fyrirlitning hans á guðs orði. Í þessu lífi hefir hann hugsað, að sér væri óhætt að láta fram hjá sér fara það, sem guðs orð segir um aftrhvarf og trú, af því að honum hefir sýnzt jafn-lítið að marka það, er það hótar, eins og hitt, er það lofar. Margsinnis hefir hann víst sagt, að það, sem sagt er um kvalastaðinn, gæti enga hrætt nema börn, og að góðr svefn í sinni eigin mjúku sæng væri meiri gœði í reyndinni en fyrirheitið um hvíldina í faðmi Abrahams. Í kvölunum hugsar hann eins; hvort brœðr hans hafa guðs orð eða allsendis ekki neitt sér til frelsunar, stendr honum alveg á sama; til þess þurfti nefnilega eitthvað virkilegt, nokkuð, sem alvara er í, svo sem það, að einhver framliðinn kœmi og vitnaði fyrir þeim; þá, en ekki fyr, væri allt gjört, sem unnt væri, til þess að þeir fengi komizt hjá glötuninni. Og í þessu vill ríki maðrinn alls ekki láta sannfœrast. Í þverúð hjarta síns neitar hann því, sem Abraham fullyrðir. Hann er ófáanlegr til að samsinna því, að það sé nóg að hafa Móses og spámennina, af því að þá hefði hann orðið að gefa það eftir, að hann mætti sjálfum sér og engu öðru kenna um glötun sína. Þessi þverúðarorð: „Nei, faðir Abraham“—eru síðustu orðin, sem vér heyr-

um til hans. Með þessu neii lokar hann sig eins og áðr út úr guðs ríki; því það hlýtr þó að vera ljóst, að guðs ríki getr eigi opnazt fyrir þeim manni, sem neitar bæði gœzku og réttlæti guðs og þykist sjálfr bæði rétthærri og miskunnsamari en guð, eins og hann hefir komið fram við oss, þá er hann í orði sínu hefir kennt oss að þekkja veg hjálpræðisins.

Það hefði þó átt að vera auðvelt fyrir ríka manninn að sjá, hvernig guðs orð er nœgilegt til að gjöra syndugan mann sáluhólpinn. Því hann hafði fyrir augum sér syndugan mann, er hann þekkti svo vel, Lazarus, er hann nú hvíldi í faðmi Abrahams. Á jörðinni höfðu þeir tveir, ríki maðrinn og Lazarus, átt jafn-auðvelt með að verða sáluhólpnir. Báðir höfðu þeir haft guðs orð, og báðum var jafn-auðið að láta það ganga sér til hjarta. Það hefði reyndar átt að vera örðugra fyrir hinn þjáða Lazarus að fá ást á guði, sem lagði á hann svo þungar þrautir. En hann hafði ekki sín gœði hérna megin. Hann hefði getað það þrátt fyrir fátœkt sína og sjúkdómskröm; auðrinn, sem hann aldrei átti, heilsan, sem hann aldrei fékk að njóta, hefði engu að síðr fyrir það getað verið eina löngun hjarta hans. Þá myndi vöntun þessa lífs gœða hafa fyllt hjarta hans bitrleik gegn guði og mönnum, og með hinni sterku þrá sinni eftir munaðarlífi, sem hann aldrei hafði af að segja, myndi hann engu síðr en ríki maðrinn hafa getað fyrirlitið alla þá andlegu fjársjóðu, er guðs orð bendir á, og fyllzt gremju út af því, svo sem nokkru, er fundið hefði verið upp á til þess að draga fátœklinginn og mótlætisbarnið á tálar, í því skyni, að koma þeim til að bera byrðar lífsins með þolinmœði og án uppreisnar-hugsana.

En Lazarus hafði gjört það, sem ríki maðrinn ekki gjörði, enda þótt honum væri það jafn-auðgefið og Lazarusi: Hann hafði látið guðs orð fá vald yfir hjarta sínu, og við það hafði hann fengið reynslu fyrir þeim gœðum, sem ná út yfir þetta líf. Samfélagið við guð var orðið að aðalgœðum lífs hans. Þetta getum vér vitað af nafni því, er frelsarinn gefr honum. Í hvert skifti, sem vér útþýðum frásögu þessa, getum vér eigi annað en minnzt þess, hvað nafnið *Lazarus* merkir; því að í því kemr fram orsökin til þess að þessi maðr varð hólpinn. *Lazarus* þýðir nefnilega: „guð veitir lið“. Þar sem þá frelsarinn gefr honum þetta nafn, þá vill hann með því láta skiljast, að það, sem sérstaklega einkenndi hann, svo að hann þekktist á því eins og væri það nafn hans, var hin óbilandi trú hans á liðsinni guðs. En að liggja sjúkr og snauðr einn dag-

inn eftir annan, — að horfa á hverjum degi gegnum opnar dyr á dýrðina og fagnaðinn við borð ríka mannsins, en verða að láta sér nœgja afgangsleifarnar, —að hafa tilfinning fyrir því, að vera einskonar olnbogabarn guðs á jörðinni, en þó engu að síðr að halda sér rólegum út af vissunni um hjálp guðs, og enn fremr að vera þekktr af honum, er hjörtun rannsakar, sem sá, er átti nafnið Lazarus, — það getr enginn, nema hann hafi reynt, hvernig hin andlegu gœði, sem guðs orð gefr fyrirheit um, geta verið svo mikil og virkileg, að fyrir þau skuli hér í lífi sálinni veitast hjálp guðs gegn gjörvallri neyð heimsins. Þegar í þessu lífi hafði Lazarus sín gœði í guðs ríki. Ekki varð hann heldr annar maðr við dauða sinn en hann áðr var. Hann átti þegar hér í lífi þau gœði, er hann gat tekið með sér inn í eilífðina, eins og ríki maðrinn þegar hér í lífi hafði útilokað sig úr guðs ríki, af því hann fyrirleit og þá líka ekki vildi kannast við önnur gœði en þau, er hann gat átt hér í lífi. Lazarus varð ekki hólpinn fyrir þá sök, að hann hér í lífi hafði verið snauðr, og ekki heldr glataðist ríki maðrinn fyrir þá sök, að hann hafði verið auðugr; en Lazarus varð hólpinn, af því hann, þrátt fyrir allt það, sem hefði getað freistað hans til að neita miskunnsemi guðs, trúði þó vitnisburði guðs orðs um miskunn hans við synduga menn, og fékk svo þar af leiðanda að reyna, að guð hjálpar enda þótt engin hjálp sé sýnileg. Og ríki maðrinn glataðist, af því að hann, þrátt fyrir alla gœzku guðs honum til handa, lét ekki leiðast til þess að leita hans, heldr fyrirleit gjörvallan ríkdóm hans miskunnsemi og átti allt til síðustu stundar öll sín gœði í þessum heimi. Lazarus og ríki maðrinn voru báðir syndarar, áttu báðir jafnt kost á því, að láta frelsa sig, þekktu báðir hið sama guðs orð. Þar sem nú annar þeirra varð hólpinn fyrir það, að hann með hjálp guðs orðs eignaðist guð sem sín gœði, en hinn þar á móti glataðist fyrir það, að hann í lífi og dauða fyrirleit öll önnur gœði en þau, er hann átti hér í lífi, — er það þá ekki nœgilega ljóst, að þetta er honum sjálfum eingöngu að kenna, svo að hann sjálfr, en ekki guð, er orsök til fordœmingar sinnar.

Eg ætla í dag að láta yðr sjálfa um það, að heimfœra þessa frásögu upp á líf yðar. Gleymið að eins ekki þessu eina: það er ekkert annað illt sagt um ríka manninn en þetta, að hann hafði meðtekið *sín* gœði hér í lífi; meira er ekki sagt. En þá vitið þér og út af þessu, að enda þótt heil-mikið gott geti sagt orðið um yðr og enn þá meira yðr til afsökunar, — hlýtr þetta að vera sagt um

yðr: „þeir meðtaka sín gœði hér í lífi“; en þá hlýtr líka samkvæmt orðum frelsarans að verða sagt um yðr: „þeir munu eftir dauðann upphefja augu sín í kvalastaðnum“.

Og svo enn þetta eitt: Spurðu ekki, hvernig guð geti viljað fordœma nokkra af skepnum sínum, því guð vill engan fordœma. En spurðu þig, hvort þú sjálfr vilt vera svo grimmr, að þú fordœmir sjálfan þig. Huggaðu þig ekki með því, að þú sért ekki svo þroskaðr (í hinu illa), að þér með djöflinum geti orðið varpað í helvíti; heldr rannsakaðu, hvort þú eftir þínum eigin dómi sért hœfr til þess að innganga í guðs ríki, þar sem öll börn hans hafa samfélag með honum. Spurðu þig í einu orði að segja, hvar þú átt gœði lífs þíns; þá mun þér, ef til vill, skiljast, hvernig sá drottinn, sem kom, ekki til þess að dœma heiminn, heldr til þess að heimrinn skyldi frelsast fyrir hann, með kærleiksfullri umhyggju gat bent oss á glötun, þá er vér sjálfir búum oss, ef vér þykjumst svo sjálfbjarga, að vér getum verið án guðs kærleika, fyrir þá sök, að vér girnumst að eiga gœði vor hérna megin. Stöndum þá ekki á móti samvizku vorri; kostum eigi kapps um að draga hana á tálar, deyfa rödd hennar, svæfa hana og forherða hana; heldr höfum hug til að losa oss við alla sjálfsblekking, allar afsakanir og allan heilaspuna hugsananna, svo að samvizkan fái vald til að skapa þá tilfinning í oss, að *guð verðr að vera gœði hjartans, svo framarlega sem vér eigum ekki að glatast, heldr hafa eilíft líf.* Amen.

## *PRÓFESSOR GÍSLI JOHNSON.*

Einhver hinn merkasti lút. guðfræðingur, sem nú er uppi, er Gísli Johnson, prófessor við háskólann í Kristjaníu. Hann er af íslenzkum ættum, Espólíns-ættinni, og varð sjötugur að aldri 10. sept. í haust. Í tilefni af þessu 70 ára afmæli hans varð mjög tíðrætt um hann og starf hans í norskum blöðum. Þykir oss því ekki úr vegi, að benda lesendum vorum á þennan merka guðfræðing, er unnið hefur þjóðkirkju Norðmanna ómetanlegt gagn.—Hann tók embættispróf í guðfræði árið 1845 með ágætiseinkunn. Næstu tvö árin var honum veittur háskólastyrkur til að ferðast til Þýzkalands og halda námi sínu þar áfram. Á þessu tímabili las hann fyrst við háskólann í Berlín og varð

þar mest fyrir áhrifum frá *Hengstenberg*. Þaðan fór hann til Leipzig og hitti þar þann mann, er seinna átti að verða samverkamaður hans og vinur, *C. P. Caspari*, nú nýlátinn. Við háskólana í Tybingen, Erlangen og Heidelberg dvaldi hann einnig nokkurn tíma. Þegar hann kom heim aptur, hafði hann um nokkurn tíma ofan af fyrir sjer með því að leiðbeina guðfræðisnemendum og búa þá undir próf. En þennan tíma var hann líka einlægt síprjedikandi. Hann prjedikaði á hverjum einasta degi vikunnar í kirkjum og bænahúsum, bæði í borginni sjálfri og á landsbyggðinni umhverfis. Voru þessar ræður hans svo fullar af eldi og andagipt, að fólkið streymdi saman til að heyra þennan lærða mann tala um kærleika guðs til mannanna, því þótt hann lærður væri, talaði hann svo einfalt og blátt áfram, að hinn mest fákunnandi maður hlaut að skilja. Ný andleg hreyfing vaknaði upp meðal fólksins, bæði lærðra manna og alþýðunnar. Það, sem Johnson virtist hafa um fram flesta aðra menn, var t. d. það, að hann hafði jöfn áhrif á alla, sem hann náði til, svo þessi volduga hreyfing, sem út frá honum gekk, náði til allra flokka mannfjelagsins jafnt. Árið 1854 gekkst hann fyrir því, að myndað væri í Kristjaníu fjelag til að reka kristniboð í landinu sjálfu. Fjelag þetta hefur ákaflega miklu til leiðar komið, og prófessor Johnson er lífið og sálin í því fram á þennan dag. Hann varð kennari við háskólann 1860 og kenndi hann þar trúfræði, þangað til prófessor Friðrik Petersen tók að kenna hana árið 1877; síðan hefur hann kennt kirkjusögu. En hann hefur ekki lokað sig inni á háskólanum, nje hugsað eingöngu um vísindin, þótt hann í sinni grein hafi staðið hinum lærðustu guðfræðingum jafnfætis. Árið 1867 gekkst hann fyrir myndun „Norsku Lúters-stofnunarinnar“. Það er aðallega bókasölustofnun, sem gefur út og selur síðan út um landið guðsorðabækur af öllum tegundum, sumar fyrir lærða guðfræðinga, aðrar fyrir ómenntaða alþýðumenn. Hefur bóksala þessi verið rekin með miklu meira kappi en almennt gjörist og bækurnar verið bornar út um allt land, inn á hvert heimili í afskekktustu dölunum, til þess alþýðan skyldi ætíð hafa tækifæri til að lesa guðs orð. Mikið af bókum þessum hafa verið varnarrit gegn vantrú og villu. Gróðanum hefur ætíð verið varið til kristilegra fyrirtækja, einkum til innanlands-kristniboðs. — Árið 1868 var hann frumkvöðull að

myndun „Díakonissu-stofnunarinnar“. það er skóli fyrir ógiptar stúlkur, er takast vilja þann starfa á hendur að hjúkra veikum, optast fyrir alls enga borgun. Annan eins starfa takast engar nema kristnar konur á hendur, sem leggja vilja líf sitt í sölurnar til að lina þjáningar mannanna. Undirbúnings-menntun þeirra kennir þeim ekki síður að hjúkra að sálum hinna sjúku en að líkamanum, og hafa þær eflaust orðið verkfæri í hendi drottins til að snúa mjög mörgum deyjandi mönnum til trúarinnar á frelsarann. Fjöldi kvenna gengur á stofnun þessa í Kristjaníu, og hafa þær þaðan breiðzt út um allt land, til ómetanlegrar blessunar fyrir andlega lífið í landinu.—Árið 1871 var hann einhver helzti hvatamaðurinn að því að stofnað væri „Stúdenta-heimilið“ svo nefnda. Áður bjuggu stúdentar hingað og þangað út um bæ, og var opt mjög illt að vita, hvar þeir voru niður komnir. Afleiðingin af því var óreglulegt líf, drykkjuskapur og svall. Til þess að koma í veg fyrir þetta, var „Stúdenta-heimilið“ stofnað. það er stórbygging, þar sem stúdentar eiga kost á að búa saman. þangað er leitazt við að safna saman á hverju ári þeim af stúdentunum, sem enga vini eða vandamenn eiga þar í höfuðstaðnum. þarna eru þeir undir áhrifum beztu manna, sem um fram allt hugsa um að opna augu hinna ungu námsmanna fyrir því afli, sem kristindómurinn hefur í sjer fólgið, til að varðveita manninn frá spilling og illum lifnaði. — Prófessor Johnson hefur að einhverju leyti verið riðinn við svo að segja hverja einustu trúarlega lífshreyfing í landinu, og endurbætur þær, er innleiddar hafa verið í þjóðkirkjuna norsku, eru langmest honum að þakka. Hann er meðlimur aðal-nefndar hins norska biblíufjelags og hefur verið það síðan 1845. Hann er í „nefndinni til að liðsinna norskum söfnuðum erlendis, sem í nauðum eru staddir“, og hefur sú nefnd starfað mikið einlægt síðan hún var sett árið 1858. Hann á mikinn og göfugan þátt í seinustu endurskoðun biblíuþýðingarinnar norsku. Að telja upp öll þau kristilegu fyrirtæki, sem hann hefur komið á fót eða átt öflugan þátt í, mundi verða allt of langt mál. Vjer bætum því að eins við, að hve nær sem prestaskólinn á Íslandi fær annan eins mann og Gísla Johnson, eins trúarheitan, ötulan, ósjerhlífinn, framkvæmdarsaman, kemur það í ljós, hvort ekki væri unnt að kippa mörgu í lag í kirkju þjóðar vorrar. Meinið er engan veg-

inn það, að ekkert sje unnt að gjöra. En meinið er, að manninn sýnist enn þá vanta. Mun ekki drottinn senda hann á sínum tíma? (*Fr. J. B.*)

---

## *FRÁ LÖNDUM VORUM Í UTAH.*

Eins og kunnugt er, hefur landi vor Runólfur Runólfsson starfað um nokkur undanfarin ár sem lúterskur trúboði meðal þeirra landa vorra í Utah, sem horfið hafa aptur frá Mormónavillunni til sinnar upprunalegu trúar. Veitti kirkjufjelag vort honum til þess leyfi sitt og staðfesting á ársþinginu við Íslendingafljót árið 1890. Hann hefur átt mjög erfitt, því fátæktin er mikil og Mormónar gjöra svo sem að sjálfsögðu allt til að spilla fyrir starfi hans. Fyrir rúmu ári sneri hann sjer til *General Council*, einhvers öflugasta lút. kirkjufjelagsins hjer í landinu, með bón um styrk, er fjelag vort eigi gat veitt honum. Nú hefur þetta lút. kirkjufjel.samkvæmt meðmælum vorum reist kirkju handa hinum ísl. söfnuði í Spanish Fork, og var kirkja þessi vígð 31. okt. síðastl. af 5 lútersknm prestum; var einn þeirra þýzkur, tveir sænskir, einn norskur, einn (Rev. J. F. Beates) innlendur. Hinn síðast taldi hjelt vígsluræðuna og vígði kirkjuna. Um nokkurn undanfarinn tíma hefur R. Runólfsson stundað guðfræðisnám undir umsjón lútersku nágranna-prestanna þar vestur frá. Hann gekk svo undir próf, skriflegt og munnlegt, nú í haust, og virðist hann hafa leyst það allvel af hendi, því að prófinu loknu fjekk Rev. Beates umboð til að vígja hann til prests. Þessi prestsvígsla fór fram sama daginn og kirkjuvígslan, byrjaði kl. 7.30 um kvöldið og stóð yfir þangað til kl. 10. Hið merkilega og um leið óvanalega við báðar þessar guðsþjónustur var það, að þær fóru fram á 5 tungumálum. Ræður voru haldnar á ensku, þýzku og sænsku. Sumir af sálmunum voru sungnir á 5 tungumálum, og voru auðvitað til þess valdir þeir sálmarnir, er standa í öllum lút. sálmabókum. R. R. las upp á íslenzku kirkjuvígslutextann (1. Kon. 8, 43, 22—30). Sem útgöngusálmur við hádegisguðsþjónustuna var sunginn sálmur Lúters „Vor guð er borg á bjargi traust" á ensku, þýzku, sænsku,

norsku og íslenzku. Við kvöldguðsþjónustuna var sunginn sálmurinn „Nú gjaldi guði þökk“ á öllum þessum tungumálum. —„Sam.“ óskar síra Runólfi og söfnuði hans allrar hamingju og blessunar í tilefni af báðum þessum vígslum. Drottinn gefi, að þessi nýi lút. prestur verði einlægur og ötull starfsmaður í víngarðinum, og gefi honum náð til að verða mörgum sálum til frelsis. Hann leggi líka blessun sína yfir þetta nývígða kirkjuhús þarna í landi Mormónavillunnar og kalli þangað marga, ef unnt er, alla Íslendinga, sem gjörzt hafa Mormónar, svo þeir finni þar aptur þann guð, sem þeim í æsku var kennt að þekkja, trúa og treysta. *(Fr. J. B.)*



Prófessor Huxley, hinn alkunni *agnostík* og vísindamaðr á Englandi, hefir nýlega í ritgjörð einni í tímaritinu „*Fortnightly Review*“ farið þeim orðum um trúarlærdóm kristilegrar kirkju, er talsverða furðu hafa vakið bæði meðal kirkjunnar manna og vantrúaðra andstœðinga hennar.

„Mér virðast trúarlærdómarnir“, segir hann, „um guðlega fyrirhugan, uppruna-syndina, meðfœdda spilling mannsins, hin illu örlög meira hluta mannkynsins, yfirráð djöfulsins hér í heimi (o. s. frv.) —, þótt að lærdómum þessum megi finna, miklu nær hinu sanna en „frelsis“-draumórarnir, sem mörgum gezt svo einstaklega vel að, að börn öll sé fœdd góð (syndlaus) og að það sé að eins dœmi spillts mannfélags að kenna, að þau halda ekki áfram að vera það, að hverjum manni sé gefið, að fullnœgja hinni siðferðislegu hugsjón, svo framarlega sem hann reynir til þess, að, allt það, sem er illt með tilliti til hins einstaka, sé gott, að því leyti sem það snertir hið gjörvalla, og annar slíkr heilaspuni, er lætr sem ekkert sé til nema gott. — — — Eg hefi mjög sterka trú á því, að hegning komi fyrir athafnir, sem í eðli sínu eru svo eða svo, eigi að eins í þeirri tíð, sem nú er, heldr og um allan ókominn aldr, er fyrir manni kann að liggja, hvort sem sá aldr er langr eða skammr. Á tilveru helvítis trúi eg þá auðvitað; því eg hefi það fyrir satt, að allir menn með ljósri meðvitund um rétt og rangt — — — hafi „stigið niðr til helvítis“ og dvalið

þar fullkomlega nógu lengi til þess, að bera skyn á það, hvað óendanleg hegning þýðir.“

Þetta síðasta skilst öðrum eins manni og Huxley, en kirkjumönnunum sumum, jafnvel meðal þeirra, er halda vilja lútersku nafni, þykir annað eins hégómi, er mannleg skynsemi aldrei fái fallizt á. Svo það sýnist nærri því hugsanlegt, að slíkir menn innan kirkjunnar ætti nú að geta farið að læra trú á ýmsar kenningar kristindómsins af manni eins og Huxley.

---

Svo telst til, að í Rúslandi sé hálf fjórða millíón Gyðinga. Svo sem kunnugt er, hafa þeir í síðustu tíð orðið að sæta óþolandi ofsóknum af hinum grísk-kaþólsku þegnum Rússakeisara, og þar fyrir utan hafa þeir eins og aðrir þar í landi tekið ósköpin öll út sökum hallæris. Til þess að frelsa þessa rússnesku Gyðinga frá samskonar hörmungum á ókominni tíð hefir Hirsch barún með samþykki keisarans sett í gang það stórkostlega fyrirtœki, að flytja allan þennan fjölmenna Gyðingahóp burt úr Rússlandi til hins forna föðurlands þeirra, Palestínu, og fá þeim þar tryggan framtíðarbústað. Á árinu, sem leið, skyldi mannflutningr þessi byrja, og var ákveðið, að tala þeirra, er þá skyldi hafa vistaskifti, væri 20 þúsundir. En á þessu ári eiga langtum fleiri að verða fluttir burt. Öllum þessum mikla fólksflutningi á að vera lokið á 25 árum. Stjórnin rússneska stýrir mannflutningunum ásamt nefnd einni af Gyðingum, sem Hirsch kýs, og til tryggingar fyrirtœkinu á Gyðinganefnd þessi að hafa undirgengizt, að depónera eitt hundrað þúsundir rúblna í ríkissjóð Rússlands.

---

Nú er járnbraut nýlögð frá Miðjarðarhafinu til Jerúsalem; var hún hátíðlega vígð áðr en á henni hófst reglulegr vagnlestagangr, og sendi Tyrkjasoldán sérstakan fulltrúa ásamt hópi verkfrœðinga frá Konstantínópel til þess í sínu nafni að vera við það hátíðarhald. Sló formaðr járnbrautarinnar upp veizlu mikilli við það tœkifœri. Járnbrautin byrjar í bœnum Joppe, aðalhöfn Gyðingalands við Miðjarðarhafið, gengr í gegnum Ramle og Lydda og nokkra fleiri bœi, og endar í Jerúsalem. Það var

áðr 36 (enskra) mílna leið, en járnbrautarleiðin er naumast svo löng. Tekr ferðin á járnbrautinni frá hafinu til hinnar fornu helgu borgar að eins hálfa fjórðu klukkustund, og ganga tvær lestir á brautinni daglega bæði til og frá.

---

Einn dag milli jóla og nýárs (30. Des.) var rétt ár liðið síðan ritstjóri blaðs þessa lagðist í hinum þungbæra sjúkdómi sínum. Í byrjun Nóvembermánaðar gjörði hann fyrstu tilraun til að skreiðast úr rúminu, og seint í Desember var bati hans orðinn svo mikill, að hann gat verið í kirkjunni á aðfangadagskvöld jóla og talað þar opinberlega út af fagnaðarboðskap jólahátíðarinnar, og sömuleiðis á nýársnótt út af áramótunum.

* * *

Hann talaði hið fyrra kvöldið aðallega út af æfintýrinu fagra eftir Hans Christian Andersen, sem segir frá laufblaðinu himinfallna. Engill flaug hátt uppi í himni með blóm úr jurtagarði drottins. Hann kyssti blómið, og við það losnaði á því eitt ofrlítið blað og féll niðr í eyðiskógi niðri á jörðinni. Þar festi það rœtr og náði undarlega fljótum vexti mitt á meðal trjánna og allskonar villijurta. En engin af þeim jurtum kannaðist við hina nýju plöntu. Þistlarnir og brenninetlurnar gjörðu að henni háð og töldu eftir henni plázið, sem hún tók upp. Vetrinn kom, en í staðinn fyrir að visna og veslast upp, eins og aðrar jurtir, dafnaði jurtin nýja vel, og það ljómaði svo undarlega og dýrðlega af henni, þá er sólin skein á hana í skammdeginu og miðsvetrarkuldanum. Og með vorinu varð hún á stuttum tíma blómlegasta plantan í skóginum. Þá kom hálærðr grasafrœðingr, prófessor frá háskólanum, á þennan stað í rannsóknarferð. Hann skoðaði jurtina í krók og kring, en hann var jafnnær eftir þá skoðun. Jurtin átti hvergi heima í grasafrœðinni hans; hún var augsýnilega einhver aðskotajurt. Þistlarnir og netlurnar tóku þessum dómi með lotning, og sýndu henni enn meiri fyrirlitning. — En stúlka nokkur, hrein og saklaus, kom þarna í skógarrjóðrið, þar sem himinfallna jurtin hafði vaxið upp. Aleigan hennar var gömul biblía, er hún hafði fengið að erfðum. Rödd frá þessari bók ómaði í sálu hennar, sem minnti hana á hinn œðsta kærleik, hans, sem fyrirgaf og bað fyrir þeim,

sem slógu hann og negldu hann á krossinn. Hún meðtók þennan boðskap með trú, og trúin jók henni skilning. Með lotning nam stúlkan staðar frammi fyrir undrajurtinni, þar sem hún stóð í fullum blóma og drakk í sig ilminn, er jurtin angaði af. Og hún heyrði rödd, er til hennar kom frá hverju blaði jurtarinnar, og raddirnar runnu saman í himneskt eilífðarlag. Hún tók eitt blómstrblað af jurtinni, og lagði það í biblíuna sína, og með því í var biblían látin undir höfuðið á henni, er hún fám vikum síðar hvíldi í líkkistunni sinni.—En jurtin hélt áfram að blómgast í skóginum og varð á að líta sem göfugt tré. Þá hneyksluðust þistlarnir og þeirra félagar, og kváðu aðskotajurtina heldr en ekki vera farna að hreykja sér upp. Og sniglarnir hugsuðu eins, og hrœktu á jurtina. Svo kom svínahirðir, sem var að safna þistlum og hrísi til eldkveikju. Hann var ekki vitrari en það, að hann reif undrajurtina upp og varpaði henni í eldinn eins og hinu ruslinu.— En það vildi til, að konungrinn þar í landinu varð þunglyndr og sárþjáðr á sálunni. Það var reynt að lækna hann með öllu móti. Líkamleg vinna var eitt læknisráðið. En það dugði ekki hót. Ekki heldr það að lesa honum djúpsett heimspekisrit, eða hálærðar vísindabœkr, eða auðveldustu skemmtibœkr. Allt reyndist ónýtt. Þá fékk konungr frá spekingi einum boð, að einn hlutr gæti þó læknað hann; það væri jurt ein í skógi nokkrum þar í landi konungsins. Það var jurtin himinfallna, sem við var átt. En nú var hún ekki lengr til, því svínahirðirinn hafði eyðilagt hana; ekki neitt eftir af henni nema laufblaðið litla í líkkistu stúlkunnar, sem enginn vissi neitt um. Svo konungrinn læknaðist ekki. Samt fór hann út í skóginn, þar sem jurtin hafði verið, og sagði: „Þetta er heilagr reitr“. Og svo lét hann girða blettinn með gullnum grindum og varðmenn gæta hans. En grasafrœðingrinn tók sig til og samdi langa vísindalega ritgjörð um undrajurtina, og hafði upp úr því mesta heiðr.

* * *

Svona er æfintýrið um jurtina dásamlegu og yfirnáttúrlegu. Og hvað það þýðir í aðalefninu, það liggr aldrei, sagði séra J. Bj., eins opið og á jólunum.—„Jólaguðspjallið er hin himneska, himinfallna jurt. Í frásögunni um fœðing hins heilaga barns í

Betlehemsjötunni liggr fólginn allr kristindómrinn; það yfirnáttúrlega stórtré, sem

„breiðir sitt lim yfir lönd, yfir höf,
á lifenda bústað, á dáinna gröf,"

sprettr upp af hinni litlu himin-föllnu andlegu plöntu, sem er vort jóla-guðspjall." — „Aldrei hefi eg fengið aðra eins ómótstœðilega hvöt til að þekkja vanmátt minn eins og á hinu liðna ári, aldrei eins verið til þess knúðr að þreifa á allsleysi mínu. En svo ætti eg þá nú á þessum jólum að hafa meira skilyrði en á nokkurri jólahátíð áðr á æfi minni fyrir því, að kunna að meta fagnaðarboðskap jólanna."

* * *

Á gamlaárskvöld las séra J. Bj. upp lofsönginn fagra eftir séra Valdemar Briem út af 150. Davíðs sálmi, sem prentaðr er fremst í þessu númeri „Sameiningarinnar". Síðan talaði hann út af 90. Davíðs sálmi, sérstaklega þessum orðum: „Og það þeirra (æfiáranna) hið kostulegasta er sorg og mœða, því þau líða skjótt, og vér erum á flugi." — „Svo þetta liðna mótlætisár æfi minnar ætti þá að vera dýrmætasti hluti hins liðna lífs míns." „Og nokkuð er það, að ekkert æfiár mitt finnst mér nú hafa verið eins stutt, liðið eins fljótt, eins og þetta síðasta."

---

Um nokkur síðastliðin ár hefir það verið siðr í söfnuði kirkjufélags vors hér í Winnipeg, að gefa kirkjunni jólagjafir í peningum. Hafa gleðilega margir safnaðarlimir tekið þátt í því, að minnast kirkju sinnar á þennan hátt, og hafa menn með því eftirbreytnisverða uppátœki drjúgum grynnt kirkjuskuldina. Við þessi síðustu áramót fékk kirkjan $140.25 í jólagjöf. — Auk þess gaf prestr safnaðarins kirkjunni býsna gott exemplar af biblíu Guðbrands biskups þorlákssonar, sem, eins og kunnugt er, var prentuð á Hólum í Hjaltadal 1584. Var þessi merkilega bók rétt áðr keypt fyrir 20 dollara. Er ætlazt til, að hún verði höfð fyrir altarisbiblíu í kirkjunni, þá er hún hefir fengið nauðsynlega viðgjörð, verið bundin í hœfilegt skrautband, sem, ef til vill, myndi kosta allt að því eins mikið og nú var gefið fyrir hana.

---

Í sunnudagsskóla safnaðar vors hér í Winnipeg kenndu alls 30 manns á síðast liðnu ári. Nú eru kennararnir 20. — Tala þeirra, er skólann hafa sótt á árinu, er 359. — Samskot á skólanum, sem er í tveim deildum, á árinu $105.55 (nálega eins og í fyrra: $101.01). — Í sjóði átti skólinn um áramótin $103.87.

---

Um það leyti, sem sunnudagsskóli Winnipeg-safnaðar varð til, sumarið 1884, var því heitið, að fyrir fjársamskot þau, er gjörð yrði á þeim skóla, skyldi, þá er tími væri til, keyptar bœkr til nota fyrir lærisveina og kennendr skólans, eðameð öðrum orðum stofnað lán-bókasafn fyrir skólann. Og nú loksins í byrjan þessa árs hefir bókasafn þetta komizt á fót. Í því eru þegar hátt á þriðja hundrað bindi (eða nákvæmlega 277). Er það flest enskar bœkr eftir fræga höfunda, nálega allt úrvalsrit. Nokkuð þeirra bóka, sem eru á ensku, er frumritað á þýzku og sérstaklega handa börnum. Af íslenzkum bókum er enn mjög lítið, en áformið er, að bœta við það, sem þegar er til, svo fljótt og mikið, sem efni leyfa. Bókavörðr er settr við safnið úr hópi sunnudagsskólakennaranna. Annast bókavörðr útlán bóka á hverjum sunnudegi samkvæmt þar til settum reglum. Ólæs börn fá ekki bœkr safnsins að láni, en í stað þess verðr þeim öðruhverju úthlutað myndablöðum ágætum.

---

Á fundi, sem haldinn var í Árnesbyggð í Nýja Íslandi í húsi hr. Þorvalds Þorvaldssonar hinn 8. þ. m., af mönnum þeim í því plázi, er eigi hafa látið leiðast burt frá evangeliskri lúterskri trúarjátning, var tekin sú ályktan, að endrmynda Árnessöfnuð og ganga í kirkjufélag vort. Voru þessir þrír safnaðarfulltrúar kosnir: Þorvaldr Þorvaldsson (formaðr), Sigrbjörn Hallgrímsson (féhirðir) og Jóhannes Magnússon (ritari), og hefir hr. Jóhannes skýrt forseta kirkjufélagsins frá þessu. Í söfnuðinum eru 8 fjölskyldur (25 fermdir og 20 ófermdir).

---

Um hið kirkjulega ástand í Seyðisfirði hefir oss (um nýársleytið) verið ritað þetta sem áframhald af því, er stendr í Desember-nr.i blaðs þessa: „Aldrei hefir meira en nú sungið á, að því er snertir ófriðinn hér í söfnuðinum. Séra Sigurðr Gunn-

arsson, prófastr á Valþjófsstað, og séra Magnús Blöndal í Vallanesi voru af biskupi settir til að koma sáttum á milli prestsins og þess hluta fólksins, sem hefir verið á móti honum. Þessir menn komu og stefndu mönnum saman á fund. Yfirheyrðu þeir einn og einn í senn og reyndu að miðla málum. En tilraun þeirra hafði lítinn árangr: að eins 3 eða 4 sættust. En svo er nú prestr síðan byrjaðr á að stefna mönnum þeim, er stóðu undir kæruskjali nokkru til biskups frá því á síðastliðnu vori, sem gaf tilefni til þess, að hin áminnzta sáttatilraun var gjörð. Gangi nú ekki saman, lendir málið fyrir rétt. Þeir tveir, er fyrst var stefnt, sættust. Lengra er ekki komið. Það má telja víst, að forsprakkar flokksins, sem eru á móti séra Birni, stappa í menn stálinu með að sættast ekki."

---

Ummælin um ritstjóra blaðs þessa í ritgjörð séra Hjörleifs Einarssonar í þessu númeri höfum vér látið standa, þótt því fari mjög fjarri, að vér eigum slíkt lof skilið. Oss fannst fyrst, eftir að vér lásum greinina, sjálfsagt, að stryka þessi orð út; en eftir nokkra umhugsan afréðum vér, að hreifa ekki við þeim, heldr láta þau standa, svo þau framvegis gæti orðið oss til auðmýkingar.

---

Vér biðjum málfróða lesendr „Sameiningarinnar" afsökunar á því, að tvennskonar stafsetning er á þessu númeri blaðsins. Eins og kunnugt er, hefir séra Friðrik J. Bergmann í voru nafni í sjúkdómsforföllum vorum haft á hendi ritstjórn blaðsins nú í rétt heilt ár. Það er fyrst með þessu númeri, að vér höfum aftr tekið við ritstjórninni; er þó sumt í þessu blaði frá honum og með hans stafsetning.

---

ÓMISSANDI LEIÐRÉTTING.

Fyrsta línan í lofsöngnum eftir séra Valdimar Briem út af 150. Davíðs sálmi fremst í þessu blaði „Sameiningarinnar" er því miðr skökk: „*Lofa guð ÞINNA; hvar?*" í staðinn fyrir: „*Lofa guð ÞINN HERRA; hvar?*" —Vér biðjum lesendr vora að fyrirgefa oss þessa slæmu villu, þótt hún sé ekki nema óbeinlínis oss að kenna.

---

*J. C. Heuch* (borið fram: *huk*), biskup í Kristjánssandi í Noregi, áðr prestr í Kristjaníu, er bæði sem guðfrœðingr og prédikari stór-frægr um norðrlönd öll og víðar. Hann hefir unnið kirkjunni og kristindóminum hið mesta gagn með ýmsum ágætum trúvarnar-ritum. Fyrir einu ári liðnu gáfum vér lesendum blaðs þessa kafla þýddan úr bók þeirri eftir hann, sem heitir „*Kirkjan og vantrúin*". Og nú í þessu nr.i höfum vér komið með prédikan eina eftir hann, þýdda úr safni af prédikunum hans fyrir alla helgidaga á árinu, er fyrir skömmu hefir verið gefið út og nefnist „*Vitnisburðr um Krist*". Menn sjá á þessari rœðu, hvernig sá maðr fer með það trúaratriði í kenning Jesú Krists, sem ýmsir af löndum vorum á þessum tíma eru að heimta að sé strykað út úr kristnum frœðum.—Vér leyfum oss í sambandi við prédikan þessa að minna lesendr vora á það. sem af oss er sagt um sama efni í hugleiðing út af „*dómum drottins*" í Sam. 6. árg., nr. 3.

Lexíur fyrir sunnudagsskólann; fyrsti ársfjórðungr 1893.

6. lexía, sunnud. 5. Febr.: Musterisvígslan (Esra 6, 14—22).
7. lexía, sunnud. 12. Febr.: Bœn Nehemíasar (Neh. 1, 1—11).
8. lexía, sunnud. 19. Febr.: Endrreisn borgarmúranna (Neh. 4, 9—21).
9. lexía, sunnud. 26. Febr.: Lögmálslestrinn (Neh. 8, 1—12).
10. lexía, sunnud. 5. Marz: Sabbatshaldið (Neh. 13, 15—22).
11. lexía, sunnud, 12. Marz: Ester frammi fyrir konunginum (Est. 4, 10—5, 3).
12. lexía, sunnud. 19. Marz: Áminningar til œskumanna (Orðskv. 23, 15—23); eða: Skurðgoðadýrkan hégómi og heimska (Esaj. 44, 9-20).
13. lexía, sunnud. 26. Marz: Yfirlit.

*KAUPENDUR „SAM." Á ÍSLANDI borgi blaðið hr. Sigurði Kristjánssyni í Reykjavík.*



„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Fifth Ave. N., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Stgr. Þorláksson, M. Pálsson, Jón Blöndal.

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.